{Þess íslendska evangeliska}
{Smábóka-Félags rit No. 47 a.}

# Andlig hertýgi Christinna og þeirra rétta Brúkan.

Þú, christin manneskja, sem dagliga átt, og það allt til dauðans, að heya orustu við þína Sálaróvini, sem eydsvarinn Jesú Christs stríðsmaður, siá hvør hertýgi þú brúka skalt, til orustu þessarar, viljirðú sigurinn vinna! Þaug sýnir Postulinn Paulus í Pistilsins til Eph. 6 Capit., og eru þaug þessi:

Fyrst er það Lindi Sannleikans, með hvørjum þú átt umgyrdtur vera, svo þú haldið gétir fast og óbifanliga við játningu og hlýðni þess himneska Sannleika, hvørjum þú í skírninni og fermíngunni hefur hátíðliga eydbundið þig til að fylgja allt til dauðans.

Þar næst er það Brynja Réttlætisins, hvørri þú skalt skrýddur vera. En þessi dýrmæta brynja er tvøføld. Það innra hennar, og það sem næst þér skal vera, er Réttlæti

Jesú Christs, hvort Gud gaf þér til eigindóms í skýrninni, sem sálu þinni skýla skal í þessari orustu. Þad ytra þessarar andligu brynju skal vera athæfi Réttlætisins, stilad eptir Jesú ordi og dæmi, af hvorju þú þekkist ad vera hans sannur Strídsmadur.

Í þridja máta skaltu hafa andligan Jesú strídsfólks Fótabúnad, til þessa bardaga. Því svo sem þinn orustu vegur, í heimi þessum, er nærsta ordugur og klúngróttur, hlýtur þú ad hafa þíns innra mans fætur dyggiliga skófatada, svo þú ecki uppgéfist á végi þessum, ádur enn þú buinn ert ad höndla huossid, fyrir hvorju þér ber ad strída.

Fjórda Vopnid, sem þér, yfir allt fram, liggur á ad hafa til orustu þessarar, og án hvørs þú tapar øllum hinum, er Skjøldur Trúarinnar. Því svo sem óvinir þínir munu aldrej afláta, ad skjóta ad þér sínum banvænu freistínga mordpílum, svo hlýtur þú jafnan, já á hvørju augnabliki, ad hafa þennan dýrmæta skjøld fyrir þig ad bera. Því bili þín Trú á Jesúm Christ, hvør ad er efnid í skyldi þessum, ertú undir eins fallinn fyrir þínum óvinum, undir eins munu þá pílur þeirra smjúga í gégnum hjarta þitt, og gjøra þér andligt, ef ei eilíft, banasár.

Fimta strídsverja þín sé Hjálmur Hjálp=

rædisins. Hans móttu beldur aldrei vid missa, þvi hann geingur nærst skyldi lifandi Trúar, þar Vonin og Trúin skiljast aldrei ad; fari þeirri einu hnignandi, er hinni og svo fiortjón búid. Dapriſt vonin, veiklaſt og svo Trúin; því beggja þeirra Sál er ein og hin sama, nefnil. Elskan til þess krossfeſta Jesú. O þessi heil. hjálmur skal jafnan hylja höfud þitt í Christs orustu, svo augum Vonarinnar óhult verdi, hvad mikil orfahrsd fleistínganna, sem ágeingur.

Hid siötta vopnid, hvört þú bædi til varnar þér, og stundum til atlögu ad fyrra bragdi, móti þínum óvinum brúka skalt, sé Andans tvieggjada Sverd. En Sverd þetta er Guds lifanda Ord. Þetta Vopn skaltú ydualiga brúka, sem skédur: nær þú 1) heyrir þad gaumgiæfiliga; 2) talar um þad gudrækiliga, 3) ransakar þig eptir því: koſtgiæfiliga, og 4) lifir sídan, eptir þess reglu, í öllu þínu framferdi, trúliga. Med Sverdi þessu, ef þú lærir og leitaſt vid ad brúka þad rétt, géturdú af þér slegid atlög þinna andligu óvina, og jafnvel stundum aldeilis þá á flótta rekid, eins og Jesús, þinn hertogi, gjördi Andſkotanum á eydimörku.

Loksins, í siöunda máta, rádleggur Poſtulinn og upphvetur þig, til ad brúka eina vissa Adferd og máta yfirhöfud, til þess þú gétir, ásamt þínum samstridendum, stadid stödugur í oruſtu þessari, sem stundum er bædi lángvinn og hættusöm. En þessi máti er: ad þú ydugaliga bidjir og stadfastliga Vakir. Þetta hid sama rádlagdi Jesús siálfur lærisveinum sínum i grasgardinum Gethsemane.

Æ vanræktú þá ecki þessa heil. Adferd ad brúka, ef þú ecki vilt líf þitt missa, í þessum skjæda bardaga. Bid þú því ydugliga, því þín naudþurft er stór; Bid þú í andanum, því annars er bæn þín til forgéfins, já þér til syndar, fyrir Gudi; Bid þú og vak þú stødugliga, svo þú jafnan til reidu sért, hvenær sem áhlaup þinna sálar óvina ské kunna; Bid þú ecki einúngis fyrir sjálfum þér, bid og svo fyrir øllum þínum samstridendum og samlídendum í Jesú stríds ríki, hér á jørdunni, og mun bæn þín ei til forgéfins verda. Bid þú sérilagi fyrir Jesú Evangelii framgángi, ad þad útbreidist sem vídarst um heiminn; ad þad dragi og locki sem flestar sálir til Jesú eptirfylgdar, uti þá andligu orustu; ad þad huggi og styrki alla þá, sem berjast til blódsins undir Jesú strídsmerkjum, svo þeir ad lyktum ødlist sigurinn. Slík Bæn mun hertoga þínum Jesú Christo mikid vel gédjast.

Nær þú nú hefur réttiliga þessi andligu vopnin uppá þig tekid, nær þú lærdt hefur stríds adferdina fullkomliga, og ert sídan út á orustu vøllinn geinginn; o svo géfstú þá ecki upp, hlauptú ecki aptur úr orustunni; fylgdú þínum hertoga óhræddur eptir; já fylgdú hønum allt til daudans! Svo sem hønum sjálfum veitir létt ad sigra sína óvini, svo mun hann og svo gjøra þér audveldt ad sigra þá alla ad lyktum. Hvar til eg óska þér hans nádar og fulltíngis af øllu hjarta! Amen!